# Vestur-Íslendingar.



## Fyrirlestur

eptir

**Einar Hjörleifsson.**

Fluttur í Reykjavík 2. nóvember 1895.



Reykjavík.
Bókaverzlun *Sigfúsar Eymundssonar.*
Prentsmiðja Ísafoldar.
1895.

Hvernig hafa þær lánazt, vesturferðirnar? Það er ekki neitt smávægilegt atriði, sem þar er um að ræða fyrir menn hjer á landi. Því að hverjum augum, sem menn kunna á vesturferðirnar að líta, þá er jeg alveg viss um, að öllum skynsömum mönnum kemur saman um það, að af þeim hreyfingum, sem orðið hafa meðal þjóðar vorrar síðan á siðabótartímanum, sje vesturferðahreyfingin þýðingarmest. Hún hefur alveg vafalaust gripið hugi þjóðarinnar almennara og með meira afli en nokkur önnur hreyfing, sem komið hefur upp meðal hennar á síðustu 300—400 árunum, og hún hefur leitt hugi íslenzkrar alþýðu inn á brautir, sem henni voru svo að segja með öllu ókunnar áður. Hver einasta þjóð í heiminum telur vesturferðahreyfinguna afar-þýðingarmikið atriði í sögu sinni. Hvervetna hafa þær fært inn í þjóðirnar nýtt fjármagn, nýa vinnuaðferð, nýar hugsjónir, í einu orði nýtt líf. En af því að þjóð vor er fámennust allra þjóða, fátækust allra þjóða og afskekktust allra þjóða, af því að menn hafa verið hjer á landi í meiri hættu en annars staðar við því að verða að þumbaralegum, sjervitrum eintrjáningum, og láta sitt þjóðarlega andrúmsloft verða að innibyrgðu baðstofulopti, þar sem lífsstraum-

ar heimsmenningarinnar ná aldrei ,um að leika, þá skyldi mig ekki kynja, þó að allir sanngjarnir menn komist á endanum að þeirri niðurstöðu, að vesturferðahreyfingin verði tiltölulega þýðingarmeiri fyrir vora þjóð en nokkra aðra þjóð í heiminum.

Ykkur er það sjálfsagt öllum að meira eða minna leyti ljóst, hve óendanlega kynlegar hugmyndir, jeg vil ekki segja flestir Íslendingar, en all-margir þeirra, höfðu fyrir sárfáum áratugum um útlendar þjóðir. Í barnæsku var mjer skýrt frá því mjög hryllilega, hve mjög hollenzkir fiskimenn sæktust eptir að ná rauðbirknum drengjum til beitu. Mjer var sagt, þeir hengdu þá upp í möstrin á fótunum og skæru þá svo á háls. Jeg man eptir því, að ekki að eins trúði jeg þessu, heldur líka fullorðna fólkið, sem sagði mjer þetta. Og jeg man eptir því, þegar fyrsta útflutningaskipið kom inn á eina höfn á Norðurlandi. Menn, sem fylgdu útflytjendum til skips, færðu þá fregn, að hljóðfærasláttur hefði heyrzt frá skipinu. Gamalli konu, sem heyrði þessa fregn, varð það að orði, að skipverjar hefðu með þessum hljóðfæraslætti verið að varna mönnum að heyra hljóðin í einhverjum, sem þeir hefðu verið að drepa. Jeg tek þessi tvö atriði rjett til dæmis um þá skoðun Íslendinga, sem var svo afar-rík fyrir tiltölulega skömmum tíma, að í raun og veru væri engin siðuð þjóð til nema þeir — þeir væru eina þjóðin, sem gerði sjer það að reglu, að fara eptir nokkrum guðs eða manna lögum. Það er ekki orðin lítil bylting í hugum manna, þegar slíkum hugsunarhætti er með öllu útrýmt. Nú er búið að útrýma honum. Og ekkert hefur átt jafnmikinn þátt í því

eins og vesturferðirnar, þótt önnur kynni af útlöndum
hafi auðvitað aukizt til mikilla muna. Meira að segja,
fyrir vesturferðirnar, vestanbrjefin, mun mega svo að
orði kveða, að naumast sje nú orðið nokkurt manns-
barn svo fáfrótt á Íslandi, að það hafi ekki meiri eða
minni hugmynd um daglega háttu annara þjóða, bæði
borgalíf og sveitalíf. Og það er ekki að eins á *þekk-
ing* manna, að Vestur-Íslendingar eru farnir að hafa
áhrif hjer á landi. Það er á allan hugsunarháttinn.
Það þarf ekki annað en minna á kirkjulegu áhrifin,
sem víst naumast nokkur kunnugur maður neitar að
eigi sjer stað. Eða þá trúna á járnbrautir og raf-
magnslýsing, sem er að komast inn, og tafarlaust hefði
verið hlegin í hel fyrir sárfáum árum. Og íshúsin gefa
manni bending um, að það sje ekki óhugsandi að Vest-
ur-Íslendingar kunni með tímanum að geta átt góðan
þátt í algerðri umbylting atvinnuveganna hjer á landi.

Þó að ekki væri um annað að ræða í sambandi
við vesturferðirnar en áhrif þeirra á menn hjer heima,
þá væri full ástæða til þess að allir Íslendingar, og
yfirleitt allir þeir sem láta sig hina íslenzku þjóð
nokkru varða, leituðust við að gera sjer nokkurn veg-
inn grein fyrir því, hvernig þessi nýbreytni hefur í raun
og veru lánazt. Því að undir því eru eðlilega að
miklu leyti komin líkindin um framtíðar-áhrifin. En
svo hlýtur hverjum heilvita manni að liggja það í
augum uppi, að hjer er um miklu meira að ræða. Því
að það ætti sannarlega ekki að vera þýðingarlaust,
hvað segja má, án hliðsjónar á öðrum, um þá sjálfa,
Vestur-Íslendingana, þessar 15 þúsundir íslenzkra
manna, eða hvað það nú er, sem vestur hafa flutt eða

þar fæðzt, hvernig vesturferðirnar hafa lánazt fyrir *þá sjálfa*, hvort þeir hafa fyrir þær orðið betri menn eða lakari menn, meiri menn eða minni menn, farsælli menn eða ófarsælli menn, og hvort framtíðarhorfurnar fyrir þá og eptirkomendur þeirra, í líkamlegum og andlegum efnum, hafa orðið bjartari eða dimmari.

Hvernig hafa þá vesturferðirnar lánazt? Hafa þær lánazt líkt og almennt var búizt við á Íslandi, þegar fólksflutningurinn fyrst hófst til Norður-Ameríku? Þið vitið sjálfsagt öll meira og minna um það, hvernig á þá nýbreytni var litið. Flestum, sem sjá áttu á bak vinum eða vandamönnum til Vesturheims, fannst sem þeir væru að horfa á eptir þeim ofan í gröfina. Og þó ekki. Því að allflestir gera sjer meiri eða minni von um, að menn, sem þeim hefur þótt vænt um, muni fara þangað eptir dauðann, sem betri tilvera er í vændum en hjerna megin grafarinnar. En í Ameríku mátti heita, að ekki væri til nema ein vistarvera fyrir vesturfara, og hún var að sjálfsögðu líkari «verri staðnum» en nokkru öðru, sem menn höfðu gert sjer hugmynd um. Menn hugðu ekki að eins, að íslenzkir vesturfarar mundu «hverfa í sjóinn», án þess urmul sæjust eptir af þeim, heldur og, að þeir mundu að sjálfsögðu eingöngu verða að leggja lag sitt við hinn versta skríl, sem laminn væri áfram miskunnarlaust, ef hann annars tæki sjer nokkuð fyrir hendur, og sjálfsagt mundu þeir lenda í hinni mestu eymd og megnustu siðspilling. Dálítið höfðu menn til að byggja á þá skoðun sína, að Íslendingar mundu hljóta að hverfa í sjóinn í Ameríku. Íslendingahópur hafði flutzt til Brazilíu nokkru áður en íslenzkir vesturflutningar hóf-

ust til Norður-Ameríku, og þeir menn höfðu horfið í sjóinn svo greinilega, sem unnt var að hugsa sjer; þeir höfðu misst tungu sína eptir fáein ár, runnið saman við fólkið, sem fyrir var í landinu, slitið allt samband við ættjörðina, og þeirra var að engu getið. Og svo hjeldu menn, að eins hlyti að fara fyrir Íslendingum hvar sem var í Ameríku — enda mun nú sumum ekki hafa verið ljóst, að það væri sjerlega langt milli Brazilíu og norðurhluta Bandaríkjanna eða Canada. Og það þótti svo mikil óhæfa að ganga á undan bræðrum sínum og systrum með því eptirdæmi að fara til Ameríku, að það var haft eptir mjög valinkunnum og merkum heiðursmanni, að enginn ætti að minnsta kosti að komast þangað óflengdur. Það þótti vel og maklega mælt.

Já, hvernig hafa vesturferðirnar lánazt? Jeg skal kannast við það, að svarið hlýtur enn að verða ófullkomið, vegna þess að í raun og veru er enn svo skammt liðið á ferðalagið. Vestur-Íslendingar eru enn útlendingar í framandi landi. Þeir eru að eins komnir ofurlítið út á láglendið, sem fyrst verður fyrir þeim, en framundan þeim gnæfa í fjarska heiðblá fjöll framtíðarinnar, hugsjónanna og vonanna. Það er vitaskuld eptir að vita, hvernig gengur að komast upp eptir þeim fjöllum, eða hvort þau kunna að reynast skínandi þokubólstrar að eins eða gullfagrar hyllingar, sem enga undirstöðu eiga á jörðunni, í stað þess veruleiks sem þau hafa fyrir augum manna þar. Því að víst er um það, trú hafa Íslendingar vestra á framtíð sinni þar. Það verður að eins sagt, hvernig ferðalagið hafi gengið það lítið, sem af er, og um það ætla jeg að fara nokkrum orðum, eptir því sem það kemur mjer fyrir sjónir.

Á hverju á þá að byrja, þegar komið er að aðal-efninu, eða hvað á jeg að velja af öllu því sem á mætti minnast? Það er svo margt, sem jeg verð að sleppa, eða rjettara sagt, það er svo fátt, sem jeg get minnzt á þessa stuttu stund, sem jeg get búizt við, að menn hafi þolinmæði til að hlusta á mig. Mjer dettur í hug að byrja á því, að mjer virðist Íslendingar vestra hafa fyrir ferðalagið orðið mannborlegri, myndarlegri menn yfirleitt í allri sinni ytri framkomu en nokkur ástæða er til að halda, að þeir hefðu orðið með því að sitja heima. Jeg bið ykkur að gæta þess, að jeg er ekki beinlínis að bera Vestur-Íslendinga í þessu efni saman við fólk hjer á landi. Jeg er að bera þá saman við það, sem líkindi eru til að þeir hefðu orðið yfirleitt, ef þeir hefðu ekki farið vestur. Vitaskuld hefur ekki allfátt farið vestur af mönnum, sem að sjálfsögðu hefðu verið sómi sinnar þjóðar, hvar sem þeir hefðu verið. En samt er mjer óhætt að fullyrða, að meginþorri vesturflutta fólksins mundi hafa verið talinn hjer lakara miðlungsfólks, og tiltölulega mikill fjöldi þess hreinir og beinir ræflar. Hvernig er það orðið nú að ytri ásýndum? Í ræðu sjera Matth. Jochumssonar á Íslendingadeginum í Winnipeg var það auðheyrt, að eitt hið fyrsta, sem hann furðaði sig á, þegar vestur kom, var það, hve fólkið var frjálsmannlegt og myndarlegt. Jeg veit, að hann sagði eins og honum bjó í brjósti. Og það er ekkert að undra. Það er ekki orðið fátt af fólki þar vestra, konum sem körlum, sem ekkert verður annað um sagt út af látbragði þess öllu og tali, en

að það sje það sem Englendingar kalla «ladies and gentlemen».

Af hverju skyldi nú þessi breyting stafa? Auðvitað stafar hún af mörgu. Jeg skal nefna fátt eitt.

Spurningin, sem lang-optast er lögð fyrir mann, sem nýkominn er að vestan, er þessi: Hvernig líður nú eiginlega Íslendingum þarna vestra? Og með þeirri spurning er ávallt átt við efnahaginn og hin ytri lífskjör manna. Það er ekki eins hlaupið að því að svara þeirri spurningu eins og margur virðist ætla. Það verður ekki í snatri skýrt frá því samvizkusamlega, hvernig 15—20 þús. manna líði. Það er svo sem auðvitað, að það er misjafnt, þar eins og annarsstaðar í heiminum. Flestallir hafa komið bláfátækir, gersamlega allslausir, þangað til lands. Margir þeirra eru nýkomnir eða tiltölulega það. Það er svo sem auðvitað, að þeir sjeu ekki orðnir fjölskrúðugir. Svo hafa menn átt þar eins og annars staðar misjafnt aðstöðu í lífinu, haft misjafnlega mikilli ómegð fyrir að sjá, verið misjafnlega heppnir, misjafnt hraustir, misjafnt duglegir, misjafnt útsjónar- og ráðdeildarsamir o. s. frv. Mjer dettur ekki í hug, að gera neitt númer út úr því, hvað Íslendingar vestra sjeu ríkir. Vitaskuld eru þar ekki fáir efnaðir menn, jafnvel stórefnaðir eptir íslenzkum mælikvarða. En að hinu leytinu veit jeg, að þetta er óhentugur tími til þess að tala um efnahag manna vestra. Jeg veit, að margur hefur átt örðugt á þessum síðustu árum, margur hefur haft stopula atvinnu, og margur hefur hugsað til þess með kvíða, hvernig hann eigi að halda í það sem honum hefur tekizt að ná í með mikl-

um erfiðismunum. Jeg *gæti* ekki prjedikað mikið um auðlegð Vestur-Íslendinga, þó að jeg vildi, vegna þess að jeg veit svo lítið um hana. Mjer leikur endagrunur á, að þeir viti það ekki með vissu sjálfir, sumir hverjir, hvernig efnahagur þeirra í raun og veru stendur, vegna þess, að þar sem eins hagar til og víða vestra, og annars í öllum löndum, sem eru að byggjast, þar er opt svo örðugt að gera sjálfum sjer rökstudda grein fyrir því, hvað verða muni úr eignum manns; það getur orðið minna en maður heldur, og það getur líka orðið meira. En hvað sem nú um það má segja, hvort Íslendingar hafi grætt þar eins mikið og von var til, eða meira, eða minna, þá dettur mjer ekki í hug að ganga á bak þeirra orða minna, að efnahagurinn hafi breytzt til batnaðar yfirleitt hjá þessu fólki.

Í því sambandi skal jeg að eins benda ykkur á þetta, að það er ekki til nokkur íslenzkur þurfamaður í Ameríku. Það hefur komið fyrir, einkum tvo vetur af þeim 10, sem jeg var í Winnipeg, að nokkrar fjölskyldur fengu lítilfjörlegan styrk part úr vetri, flestallt fólk, sem komið hafði sumarið á undan. Þessar styrkveitingar bæjarstjórnarinnar hafa numið sára-litlu í Winnipeg, og þó eðlilega meiru þar en úti í sveitunum. Hitt, að láta aðra fara að ala önn fyrir sjer og sínum fyrir fullt og allt, árum eða áratugum saman, eins og hjer á landi er svo sorglega títt, sem öllum er kunnugt — það er allsendis óþekkt meðal Íslendinga í Vesturheimi. Þar vinnur hver einasti maður fyrir sjer og sínum — engum manni dettur eitt einasta augnablik annað í hug en hann verði að gera það.

Gerir nokkur sjer í hugarlund, að hið sama hefði mátt segja um allt þetta fólk, ef það hefði setið kyrt hjer heima? Og er þá ekki breytingin til batnaðar?

Jeg sagði áðan, að jeg gæti ekki prjedikað mikið um auðlegð Vestur-Íslendinga, þó að jeg vildi. Jeg *vildi* það ekki, þó að jeg gæti. Því að auðurinn út af fyrir sig er ekki í mínum augum neitt aðalatriði. Hitt finnst mjer þýðingarmeira, hvernig það fje er notað, sem fyrir hendi er, hvort lifnaðarhættirnir hafa orðið mannaðri. Þið vitið það öll, að menn geta verið efnaðir, og þó lifað skrælingjalífi. Og jeg skal ekki dyljast þess, að í því efni virðist mjer vera að ræða um breyting til stórbatnaðar frá því sem hávaðinn af þessu fólki hefði getað gert sjer nokkra von um hjer á landi. Það eru t. d. til heldri heimili hjer, að líkindum ekki svo fá, sem hafa svo aum húsakynni, að engum fátækling meðal Vestur-Íslendinga dytti í hug að hafast þar við. Vitaskuld eru ekki »logga«-húsin svokölluðu úti í sveitunum skrautleg. En þau geta þó verið hrein. Þar eru engir moldarveggir, engin moldarrjáfur, engin blaut torffýla og þau leka ekki. Og svo hverfa »logga«-húsin smátt og smátt og reisuleg og smekkleg hús koma í staðinn. Í bæjunum er það altítt, að verzlunarmenn, iðnaðarmenn og jafnvel óbreyttir verkamenn hafi allt að því eins góðan aðbúnað á heimilum sínum eins og bezt gerist hjer í bæ. Stofurnar eru reyndar sjaldnast eins stórar hjá því fólki vestra, en þykkir dúkar eru víða út í hvert horn og alveg út á útidyraþröskuldinn, húsgögnin í hverju herbergi eru samstæð, þægileg og smekkleg, og það hygg jeg óhætt að fullyrða, að sjaldgæfur sje hjer í

höfuðstaðnum jafn-vandaður svefnherbergjabúnaður eins og vestra tíðkast.

Að sama skapi og húsakynnin eru hin önnur ytri lífskjör. Fötin eru góð, og matarhæfið stórum betra en hjer gerist í sveitum, með öllu grautarsullinu, sem þar á sjer stað, að minnsta kosti sumstaðar, — að jeg ekki tali um sjávarplássin, þar sem landbúnaður er lítill eða enginn. Í samanburði við aðra þjóðflokka vestra eru Íslendingar áreiðanlega allmikið gefnir fyrir það að eiga gott. Á það benda líka orð, sem Dakótamaður einn sagði við mig í fyrra. Hann var nákunnugur Íslendingum í Dakótanýlendunni, en í nágrenni við Íslendinga þar eru mest Norðmenn og Canadamenn, sem flutt hafa suður yfir landamærin. »Íslendingurinn byrjar á því«, sagði hann, »þegar hann fer að geta nokkuð, að koma sjer upp fallegu íbúðarhúsi. Canadamaðurinn byrjar á því, að reisa sjer mikla hlöðu og ásjálegt gripahús. En Norðmaðurinn tímir hvorugu, hann nurlar«. Að því er matarhæfið snertir, mundi það verða kallað blátt áfram óhóf hjer á landi, eins og það gerist sumstaðar vestra. Á ferð minni um nýlendurnar síðastliðinn vetur borðaði jeg miðdegisverð allvíða í Minnesota-nýlendunni hjá bændum, án þess nokkur fyrirbúnaður gæti átt sjer stað mín vegna. Alstaðar var maturinn fyrirtaksgóður, víðast tveir ketrjettir á borðum, fuglasteik og einhver önnur steik, allstaðar góður »dessert« og vandaðar kökur með kaffinu. Við þetta borð sat allt heimilisfólkið, húsbændur, börn og hjú. Þetta er fólkið, sem Otto Wathne ætlar að gera miskunnarverk á og flytja úr neyðinni hingað til lands! Jeg bið ykkur að fyrirgefa, hvað

mikil matarlykt er af þessu, sem jeg hef nú verið að segja. Jeg gat ekki stillt mig um að geta þess, því að það varpar nokkurri birtu yfir þessa eymd, sem menn halda að eigi sjer stað meðal Íslendinga vestra. Þetta var í marzmánuði, eitt lakasta árið, sem Vesturheimur hefur átt að stríða við á þessari öld. Það getur hver, sem vill hafa fyrir því, borið það saman við harðæri hjer á landi.

Jeg hef nú bent ykkur á eitt atriði, sem veldur því, að engum manni, sem eptir tekur, dylst það, að Íslendingar eru frjálsmannlegri og myndarlegri menn yfirleitt eptir að þeir hafa dvalið nokkurn tíma í Vesturheimi heldur en þegar þeir koma þangað. Það er ekki auðlegðin, sem gerir það. Jeg geri ekki mikið úr auði þeirra yfir höfuð. En lifnaðarhættir þeirra hafa allir færzt í menningaráttina. Og margir hafa, þótt þeir í raun og veru hafi átt lítið, haft mikið undir höndum og með því vanizt á að finna til þess, að starf þeirra hefði svo og svo mikla þýðingu, og að því fylgdi svo og svo mikil ábyrgð. Og úr því jeg nefni orðið »ábyrgð«, dettur mjer í hug að skjóta því inn, að mikill munur er á því, hve ríka ábyrgðartilfinning menn virðast hafa vestra eða hjer gagnvart fjöldskyldum sínum. Það má næstum því svo að orði kveða, sem sá fjölskyldumaður sje ekki talinn í hóp almennilegra manna þar, sem ekki hefur þetta frá eins til fimm þúsund dollara lífsábyrgð; og fjöldi einhleypra manna þar hefur líka tryggt líf sitt.

Og svo má ekki gleyma því, þegar ræða er um efnahaginn í þessu sambandi, að þó að allt fari forgörðum, sem menn hafa aflað sjer, þá láta menn þar

það ekki verða til þess að þrýsta sjer saman í kuðung. Menn færa sig að eins lengra út á sljettuna með þeirri meðvitund, að eptir alltsaman hafi menn þó að minnsta kosti grætt reynsluna, og standi að öllu leyti betur að vígi en þegar þeir byrjuðu. Jeg hef opt haft gaman af að lesa blöð Vesturheims að ný-afstöðnum kosningum, einkum blöð þeirra flokkanna, sem undir hafa orðið. Næstum því undantekningarlaust hafa þau komizt að þeirri niðurstöðu, að í raun og veru hafi þau sigrað, talið ósigur sinn »great moral victory« (stórkostlegan siðferðislegan sigur) og tekið tafarlaust að færa lesendum sínum heim sanninn um það, að úrslitin muni verða nokkuð öðruvísi við næstu kosningar. Það er holl tilhneiging þetta, að láta ekki hugfallast, og Vestur-Íslendingar eru áreiðanlega farnir að fá allmikið af henni frá sínum nýju samlöndum. Hjer heima hafa menn miklu minna af henni, og aðal-úrræði manna hafa venjulega verið þau, ef þeir hafa komizt í verulegar kröggur, og ef þeir hafa ekki farið til Ameríku, að fara á hreppinn, og verða svo á honum alla sína æfi.

Annað, sem jeg ætla að minnast á í þessu sambandi, og jeg er viss um, að ekki hefur haft litla þýðing í sömu áttina, er sú aukna menntun, sem Íslendar hafa fengið vestra fram yfir það, sem allur þorri þeirra hefði getað gert sjer nokkra von um á Íslandi. Jafnvel í því einu, að fara til Ameríku, liggur svo og svo mikill menntunarauki, í samanburði við það, að sitja allt af kyr á sömu þúfunni lengst norður í höfum. Mundi ekki vera menntunarauki í því að sjá allt það nýtt, sem maður sjer, heyra allt það nýtt, sem

maður heyrir, lifa sig að meira eða minna leyti inn í nýtt þjóðlíf, taka upp nýa, mannaðri lifnaðarhætti, kynnast af eigin sjón og reynd nýju þjóðfjelagsskipulagi, fara að hugsa nýar hugsanir? Mundi ekki vera menntunarauki í því að kynnast nýjum mönnum, svo og svo ólíkum öllum þeim mönnum, er maður hefur áður sjeð? Mundi ekki vera menntunarauki í því, að læra að meira eða minna leyti þá tungu, sem jafnvel þeir málfræðingar, sem mesta stund hafa lagt á forntungurnar, segja að sje fullkomnast allra tungna, sem þjóðir heimsins hafi nokkru sinni mælt á, tungu, sem jafnframt því sem hún er heimsins praktiskasta mál, er ein af heimsins allra ágætustu bókmenntatungum? Skyldi ekki þessi viðkynning við nýa, vel siðaða menn, og sá fróðleikur, sem í því er fólginn að læra slíkt mál, sem enska tungu, gefa mönnunum nokkurn hugarstyrk og sjálfstraust.

Og svo eru alþýðuskólarnir. Í því efni hefðu Íslendingar hjer mikið af Vesturheimsmönnum að læra. Ríkið leggur til stórfje, og að reglulegum útkjálkum undanskildum, er mjög vandað til kennara. Öll tilsögn er þar ókeypis, og þar sem langt er á veg komið, eins og t. d. í Winnipeg, eiga unglingar kost á 8 ára tilsögn, eða rjettara sagt, bekkirnir eru 8, hverjum ætlað eitt ár, en nemendur geta setið eptir. Hugsanin, sem þar ríkir, er sú, að fyrst og fremst sje það *alþýða manna*, sem eigi heimting á því, að ríkið sjái henni fyrir auðveldum menntunarskilyrðum, enda sje heill ríkisins fremur undir því komin en nokkru öðru, að *hún* menntist. Hitt verði að sitja á hakanum, að koma upp menntastofnunum fyrir einstaka menn

eða einstakar stjettir manna, og margir telja það jafnvel alveg rangt, að gera það af almennings fje. Eins og þið sjáið, er þessi hugsunarháttur þver-öfugur við þann sem hjer hefur ríkt. Og örðugt mundi verða að koma Vesturheimsmönnum skilning um það, að í landi, þar sem alþýðumenntunarmálið er svo hlægilega skammt á veg komið, að ekki eru nema sárfáir menn til, sem kunna almennilega að kenna börnum að lesa, skrifa og reikna, og þar sem hver fátæklingur verður að kaupa slíka tilsögn dýrum dómum eða þá þiggja af sveit — að þar sje *háskóli* aðal-menntunar-lífsnauðsynin. — Þessa skóla hafa Íslendingar vestra yfir höfuð hagnýtt sjer prýðilega. Og það er ekki ljeleg menntun, sem þar má fá, þar sem skólarnir eru lengst á veg komnir, eins og geta má nærri, þar sem námstíminn er jafn-langur og kennararnir eru hámenntaðir menn, sem allir hafa lært að kenna í því landi, sem einna lengst mun vera komið í þeirri námsgrein. Enda er sýnilega að reka að því, að takmarkalínan milli hinna svokölluðu »lærðu« og »ólærðu« manna þurkist út, og að meðal Vestur-Íslendinga verði svo og svo margt af körlum og konum í öllum atvinnugreinum, sem fengið hafi svo notadrjúga skólamenntun, að ekki mundi verða litið niður á það fólk, hvað menntaða samvistamenn sem það kynni að fá á lífsleiðinni. —

Og það þarf ekki skólagengna fólkið til. Hvíldartíminn frá störfunum er svo langur, að mikill tími verður afgangs til lesturs. Og þar er hann líka af mörgum notaður til lesturs. Það er næstum því ótrúlegt, hvað margir Vestur-Íslendingar lesa mikið. Vesturíslenzku vikublöðin eru á flestum heimilum, keypt af

hjer um bil 10. hverju mannsbarni, hvort um sig. Svo er aragrúi af mönnum, sem heldur blöð á ensku, sem koma út á hverjum degi, og auk þess er mikið haldið af norsk-amerískum blöðum. Svo bætist þar við bókalestur, sem er mjög mikill, sumpart vegna þess hve afar-ódýrar alþýðu-útgáfur af bókum eru þar í landi. Og það er síður en ekki einkum bókaruslið sem lesið er. Jeg þekki menn, sem hafa komið til Vesturheims fullorðnir, án þess að kunna nokkurt orð í enskri tungu, aldrei hafa komið í neinn skóla, en allt af verið að vinna fyrir sjer, menn, sem verja sínum frístundum framar öðru til þess að lesa hin ágætustu rit enskra og amerískra rithöfunda, eða rit annara snillinga þýdd á ensku, og eru vaknir og sofnir í að hugsa og tala um sumt af því dýpsta og dýrðlegasta, sem mannsandinn hefur framleitt. — Mjer dettur í hug að segja frá því í þessu sambandi, rjett til dæmis, að einn af þessum allsendis óskólagengnu mönnum skrifar mjer í sumar, að það fallegasta, sem hann hafi nú lesið, síðan við skildum, sje »Maud« eptir Tennyson. »Maud« er eitthvað 200—300 erinda kvæði, á þungri ensku, en ef til vill fegurstu ljóðin, sem Tennyson hefur ort. Mjer leikur grunur á, að sá piltur hefði lesið einni góðu bókinni færra, ef hann hefði allt af verið kyr hjer heima. Og mjer leikur jafnframt grunur á, að sumir »lærðir« menn hjer á landi mundu kynoka sjer við að leggja út í að lesa sumt, sem bæði hann og margir aðrir alþýðumenn lesa þar.

Og svo ætla jeg að minnast á eitt atriði, sem jeg er sannfærður um, að ekki á hvað minnstan þátt í því, að sá menningarbragur er kominn á Vestur-Íslendinga,

sem jeg hef nú verið að tala um. Það er það, að þar vestra er algert borgaralegt jafnrjetti. Jeg skal skjóta inn tveim dæmum til skýringar. Annað gerðist á póstskipinu danska-íslenzka á höfn einni í Færeyjum. Þokkalega búinn bóndamaður, en í færeyskum þjóðbúningi, kom út á skipið og spurði eptir »hovmeistaranum«. Honum var vísað á hann inni í reykingaherberginu á 1. káetu. Færeyingurinn rífur ofan skotthúfuna og spyr »hovmeistarann«, hvort hann mætti vera svo djarfur, að spyrja hann, hvort hann vildi vera svo góður, að gera sjer þann greiða, að selja sjer tvær hálfflöskur af öli. Já, »hovmeistarinn« vildi vera svo góður, — en manninum var bannað að drekka þetta öl sitt annars staðar en á 2. káetu, og þangað varð hann að labba með það, aptast úr skipinu og fremst fram í það. Hitt atvikið gerðist hjer í Reykjavík meðan jeg var í skóla. Danskur maður hafði komið upp hótelli hjer, og einn af merkustu bændunum á Suðurlandi, Kristinn í Engey, kom þangað inn til þess að fá sjer glas af öli. Hann settist óumtalað inn í stofu, sem heldri gestum var ætlað að sitja í, og ein af hótellsstúlkunum færði honum drykkinn þangað. En svo kom húsráðandinn von bráðara með öndina í hálsinum og reistur mjög, og sagði honum, að hann yrði að færa sig með glasið sitt inn í dónastofuna. Kristinn þverskallaðist, kvaðst hafa borgað sinn drykk, og sagðist mundu sitja kyr. Húsráðandinn sagði, að dónum á íslenzkum skóm væri ekki ætluð þessi stofa, og ætlaði að flytja Kristinn með valdi. Það fóru svo leikar í þetta skipti, að veitingamaðurinn þakkaði sínum sæla að komast lífs út úr þessari heldri manna

stofu sinni, og Kristinn lauk við að sötra úr glasi sínu í næði. En lang-flestir íslenzkir alþýðumenn mundu nú hafa flutt sig, og þakkað fyrir, að fá að vera einhvers staðar innan fjögra veggja, meðan þeir voru að drekka það öl, sem þeir höfðu sjálfir borgað. Þar sem sá bragur er á þjóðlífinu, að jafn-miklir peningar manna eru ekki jafn-góðir, af því að mennirnir stunda mismunandi atvinnu, þar er ekki borgaralegt jafnrjetti. Vestur-Íslendingar mundu ekki taka slíku með þökkum, því að þeir eru því óvanir. Hvers vegna getur slíkt ekki komið fyrir þar í landi? Það stendur svo á því, að það er einmitt eitt hið dýrðlegasta ágæti þess lands, að allt heiðarlegt starf er í raun og veru jafn-mikils virt, og það er tryggingin fyrir borgaralegu jafnrjetti. Fyrir því er engin önnur trygging í veröldinni. Það jafnrjetti verður ekki tryggt með stjórnarskrá nje öðrum lagaboðum. Í Vesturheimi er, bókstaflega að skilja, ekkert heiðarlegt, þarft verk til, sem þyki ósamboðið nokkru prúðmenni, karli eða konu, svo framarlega sem því sje ekki samfara of mikil líkamleg áreynsla. Jeg hafði heyrt þetta og mundi það, þegar jeg kom til Ameríku. En jeg komst brátt að því, að í raun og veru hafði það verið utanaðlærð þekking, sem ekki hafði komizt inn í meðvitundina. Jeg skildi það fyrst til fulls einn sunnudagsmorgun, þegar jeg sá unga og efnaða frú, forkunnar fríða, vera að sækja vatn í fötum. Það var komið rjett að kirkjutíma og hún var komin í silkikjól, og þá fyrst hafði hún sýnilega tekið eptir því, að húsið var vatnslaust. Vatnssókn til heimilisins, hirðing á hestum og hesthúsum, kúm og fjósum o. s. frv. eru störf, sem enginn prest-

ur, enginn málafærslumaður, enginn borgarstjóri, enginn dómari, enginn stórkaupmaður fyrirverður sig fyrir að inna af hendi, hvenær sem þörf gerist. Af þessu mun ykkur geta skilizt, hve mjög vinnan er þar í heiðri höfð. Og að hafa vinnuna í heiðri er það sama sem að hafa þá í heiðri, sem vinnuna inna af hendi. Þar er óþekkt að gera stjettamun á mönnum í viðskiptum og umgengni. Þar stendur maður jafnt að vígi með að fá sig fljótt afgreiddan í búð, hvort sem maður er hátt eða lágt settur í mannfjelaginu. Þar er ekki sá siður að þjera heldri menn en þúa undirtyllurnar. Þar þætti nokkuð kynlegt og illa upp alið ungmenni, sem legði í vana sinn að tala jafn-fyrirlitlega um vinnukonur eins og tíðkaðist hjer í latínuskólanum, þegar jeg þekkti þar til. Enda er sannast að segja, að þar hefur maður opt ástæðu til að láta sjer koma til hugar orð Hallgríms Pjeturssonar: »Þú veizt ei hvern þú hittir þar, heldur en þessir Gyðingar«. Þar ber ekki ósjaldan við, að verkmaðurinn, sem gengur að stritvinnu, sje betur menntur og siðaður en verkveitandinn, og vinnukonan sannarlegra hefðarkvendi en húsmóðir hennar.

Það sem jeg hef sagt hjer á undan um efnahag Vestur-Íslendinga, menntun þeirra og borgaralegt jafnrjetti, hef jeg minnzt á í sambandi við hina ytri framkomu þeirra, talið það sem nokkur þeirra atriða, er hafi valdið því, að þeir hafi orðið frjálslegir menn. Nærri má geta, að þetta hafi líka leitt til nokkurrar breytingar á hinu innra lífi þeirra. Og jeg skal tafarlaust taka það fram, að aðalbreytingarnar, sem mjer virðist um vera að ræða í því efni, eru í því fólgnar,

hvað Vestur-Íslendingar eru farnir að láta málefnin, prinsípin, verða rík í huga sínum, hvað þeir eru farnir að gera sjer það ljóst, að hver um sig sje partur af stærri heild, sem þeir eigi skyldur við að rækja, með öðrum orðum, hvað þeir eru orðnir fjelagslyndir menn. Mörgum kann að þykja þetta kynleg staðhæfing; menn eru orðnir því svo vanir, að kvartað sje um ófjelagslyndið meðal Íslendinga, og meðal þeirra sem kvartað hafa hef jeg stundum sjálfur verið. En menn mega ekki láta slíkt villa sig. Þegar barizt er fyrir einhverju, hvað sem það nú er, þá ber eðlilega meira á ágreiningnum við þá sem á móti manni eru en á samkomulaginu við þá sem með manni eru. Á hverjum einasta vígvelli heimsins er hugsað meira um að fella andstæðingana en að lofa fylgismennina. Það er svo sem auðvitað, að það sem jeg hef sagt hjer á undan um áhrifin af bættum efnahag, aukinni menntun og borgaralegu jafnrjetti á ekki við alla Vestur-Íslendinga. Sumir hafa ekki fyrir þetta orðið háttprúðari menn, heldur hrokagikkir, langtum óskemmtilegri menn en ef þeir hefðu alltaf setið í hinni kröppustu kreppu lítilmagnans. Og alveg eins er með það sem jeg er nú að tala um. Það er enn til meðal Vestur-Íslendinga allt of mikið af eintrjáningum og sjervizkuseggjum, mönnum, sem ekki vilja virða nokkurt mál, hvað dýrmætt og heilagt sem það kann að vera, þess, að hugsa um það eins og skynsemi gæddum mönnum sæmir, því síður þess, að leggja nokkuð í sölurnar fyrir það. En það er svo fyrir þakkandi, að það eru ekki *þeir*, sem setja svipinn á líf Vestur-Íslendinga. Og jeg er einmitt að tala um þá sem setja svipinn á lífið þar. Jég er að

tala um það, hvernig Vestur-Íslendingar komi mönnum fyrir sjónir, þegar menn virða þá fyrir sjer sem heild, athuga hleypidómalaust og ástríðulaust hina opinberu framkomu þeirra *í heild sinni*. Og þegar litið er á Vestur-Íslendinga frá því sjónarmiði, held jeg að sanngjarnir menn verði að kannast við, að þrátt fyrir allar misfellurnar hafi þeir reynzt prinsípamenn og fjelagslyndir menn.

Og þá verður hluttaka þeirra í pólitíkinni fyrst fyrir mjer. Jeg ætla ekki að fara að gera neitt lítið úr pólitík landa minna hjer heima, en almenn umkvörtun er það, að þingmannskosningar fari hjer opt fram fremur eptir persónum en prinsípum. Og kynlegar sögur eru sagðar af sumum kjörfundunum, eins og t. d. þessi: Kjósandi er spurður, hvern hann ætli að kjósa. »Jeg ætla að kjósa þennan, sem hann Pjetur bað mig að kjósa. Ætli hann hafi ekki eins gott vit á því eins og hver annar, hver muni vera beztur?« Og það leikur jafnvel orð á því, að kjósendur hafi sumstaðar komið upp að kosningarborðinu án þess að vita nafnið á því þingmannsefni, sem þeir ætluðu að kjósa, og hafi að eins sagt þar, að þeir ætluðu að kjósa þann sem hann Pjetur á Hóli hefði kosið. Eitt atriði sjerstaklega bendir mjer á, að eitthvað muni hæft í þessum sögum. Eins og ykkur er kunnugt, hefur komið til orða á alþingi, að breyta kosningalögunum í þá átt, að hafa marga kjörstaði í hverju kjördæmi, einn í hverjum hreppi, að mig minnir. Mjer skilst sem þetta nýmæli, sem í augum hvers Ameríkumanns mundi vera alveg sjálfsagt, hafi einkum strandað á því, að margir hyggnir menn og kunnugir hafi óttazt, að því mundi verða samfara enn meira prinsíp-

leysi í kosningum en nú á sjer stað, og að hver hreppur mundi verða að burðast með sitt þingmannsefni. Jeg held, að svo framarlega sem slík hræðsla sje annað en hugarburður, muni engum óvilhöllum manni, sem til þekkir, geta blandazt hugur um það, að Íslendingum, sem vestur hafa flutt, hafi aukizt pólitískur þroski við dvöl sína þar í landi. Vitanlega má nú ýmislegt finna að hluttöku sumra þeirra í pólitíkinni, enda er það sannarlega ekki að undra, ekki eldri en margir þeirra enn eru þar í landinu. En hvað sem því líður, þá væri mjög ranglátt að neita því, að *aðallega* skiptist þeir nú orðið eptir þeirri hugmynd og sannfæring, sem þeir hafa fengið um málefnin. Og það verð jeg að segja um viðkynning mína af hluttöku Vestur-Íslendinga í pólitíkinni, að jeg hef á hinum síðari árum verið standandi hissa á áhuganum, sem komið hefur í ljós hjá þessum mönnum, sem eru þó óneitanlega enn útlendingar í framandi landi, eins og jeg hef áður sagt. Þau eru ekki mörg, íslenzku atkvæðin, sem ekki hafa komið fram við þingkosningar, þar sem jeg þekki til. Og sjaldan hafa Winnipeg-Íslendingar átt svo miklu húsnæði yfir að ráða, að ekki hafi orðið að fara mjög illa um marga fyrir þrengsla sakir, þegar talað hefur verið við þá um pólitík.

Mjer detta í hug tvö dæmi um áhuga þann, sem Vestur-Íslendingar hafa sýnt við kosningar. Við fylkisþingskosningarnar í Manitoba sumarið 1892, áttu tveir Íslendingar í Winnipeg atkvæði í Selkirk, sem er eitthvað þingmannaleið þaðan. Það voru óbreyttir alþýðumenn, sem engan hag gátu haft af úrslitunum um fram hverja aðra borgara fylkisins. Þeir ætluðu með

járnbrautarlest kveldið fyrir kosningadaginn, en urðu of seint fyrir til að ná í hana. Hellirigning var og hafði verið allan daginn og vegir hinir verstu. En þeir ljetu það ekki aptra sjer, heldur gengu allan þennan veg um nóttina til þess að missa ekki af atkvæði sínu.— Sambandsþingskosningar fóru fram í Canada snemma í marz 1891. Íhaldsflokkurinn, sem sat við völdin og situr enn, hafði yfirleitt auðmennina á sínu bandi, og þeir ljetu óspart fje af hendi rakna til kosningabaráttunnar. Aptur á móti voru stjórnarandstæðingarnir, líberali flokkurinn, svo að segja fjelausir. Stjórnarsinnar höfðu veður af því, að Íslendingar í Argylenýlendunni mundu vera sjer lítt sinnandi, og til þess að gera þeim sem örðugast fyrir með að sækja kosninguna var kjörstaður ákveðinn svo fjarri þeim sem við varð komið, og sumir þeirra áttu eitthvað 20 enskra mílna ferð fyrir höndum, til þess að geta neytt atkvæðisrjettar síns. Svo kom kosningadagurinn. Frost var afarhart og auk þess kafald. En þeir komu samt sem áður, Íslendingarnir, hver einn og einasti maður, sem á kjörskrá stóð, eitthvað 80—90 manns, og þar á meðal örvasa gamalmenni. Og allir greiddu þeir atkvæði á einn veg, móti stjórninni og auðvaldinu.

Svo eru kirkjumálin. Jeg fæ með engu móti betur sjeð, en að þau eigi að verða Vestur-Íslendingum til sóma í augum allra sanngjarnra manna, og beri vitni um allmikla sannfæringarfestu og fjelagslyndi. Jeg skal fyrst nefna Únítarana. Það er viðurkennt af öllum, að mjög sterk únítarisk alda velti fyrir Ísland um þessar mundir. Engum lifandi manni hjer virðist þó koma til hugar, að ganga í bandalag með þá sann-

færing sína og stofna Únítara.söfnuð. Vestra gera þeir það, og það er virðulegt fyrirtæki. Auðvitað kveður mest að kirkjumálum Lúterstrúarmannanna, og jeg get í einu orði sagt, að jeg ber virðingu fyrir allri þeirri viðleitni, sem þar hefur fram komið. Jeg ber virðingu fyrir vestur-íslenzku lútersku prestunum, sem flestir hefðu getað átt kost á starfi, sem bæði hefði verið náðugra, betur launað og betur þakkað en það starf, sem þeir hafa valið sjer meðal landa sinna á sljettunum í Norður-Ameríku. Fyrir allt staglið um ofstæki þeirra gef jeg ekki túskilding. Þeir hafa ekkert til saka unnið annað en halda fram á þann hátt, sem samvizka þeirra hefur boðið, og á líkan hátt og gert mundi hafa verið af fulltrúum annara kirkjuflokka þar í landi, því máli, sem þeir telja helgast og dýrmætast allra málefna. En jeg veit og jeg held líka, að flestir aðrir vestra viti það, að þeir leitast við bæði að fá sig til að elska alla menn og að virða allt gott og virðingarvert hjá öllum mönnum, hvað sem öllum ágreiningsatriðum líður. Og jeg ber virðingu fyrir lútersku söfnuðunum, sem í frumbýlingsskapnum hafa lagt það á sig af frjálsum vilja, auk svo margs annars, að reisa kirkjur fyrir upphæðir, sem nema tugum þúsunda af dollurum. Og þegar jeg hugsa um kirkjuþingin vestur-íslenzku, þar sem fátækir bændur taka sig upp frá störfum sínum og fara langar leiðir með miklum kostnaði til þess að ræða mörgum dögum saman um andleg mál, þá getur mjer ekki annað en komið til hugar til samanburðar synodus, sem lengst af hefur ekki haft annað umtalsefni en skipting á fáeinum krónum milli fáeinna presta ekkna — og svo hjeraðafundirnir, sem víða verða ekki

einu sinni haldnir, af því að prestar og safnaðafulltrúar fást ekki til að verja til þeirra einum einasta degi af árinu. Það má vitanlega finna miklar afsakanir fyrir slíkri deyfð, en munurinn er auðsær.

Jeg hef verið spurður að því hjer heima, hvernig eiginlega standi á öllu »kirkjuþrefinu« þar vestra. Hjer heima eru þeir sjálfsagt margir, sem ekki skilja það, að mönnum skuli geti orðið jafn-skrafdrjúgt um kirkju og kristindóm eins og Vestur-Íslendingum. Jeg skal kannast við það, að mjer hefur stundum þótt nokkuð mikið af því tali þar vestra, ekkert síður í daglegum ræðum manna en í ritum. Það er ekki laust við að vera óviðfeldið fyrir minni tilfinning, að sjá og heyra menn standa inni í búðum og úti á strætum og gatnamótum og dispútera um guð og eilífðina. Og slíkt var ekki mjög sjaldgæft þar vestra. En ekki er »kirkjuþrefið« þar vestra orsaka- eða ástæðulaust fremur en annað, sem við ber í heiminum.

»Þrefið« svokallaða orsakast auðvitað að mjög miklu leyti af þeirri mjög svo einbeittu mótspyrnu, sem þar hefur risið upp gegn kirkju og kristindómi. Mönnum hefur verið nauðugur einn kostur að verja sig, verja sannfæring sína og annara, sem halda fast við kristna trú. En svo hefur kirkjan þar víðtækari þýðing fyrir menn heldur en t. d. hjer heima. Af því að öll hin kirkjulegu fyrirtæki þeirra eru byggð á frjálsum framlögum, verða þau fyrirtæki mönnum næstum því að segja ótrúlega hjartfólgin. Og eins og þið getið skilið, hefur það ekki litla þýðingu fyrir menn, þótt ekki sje litið á annað en fjárhagshliðina eina, hvort margir eða fáir fást til að sinna slíkum

fyrirtækjum. Og svo stendur langmest af samkomu- og skemmtanalífi kirkjumanna þar í landi beint í sambandi við kirkjuna; og það verð jeg að segja, að það hefur verið gróði en ekki tjón. Með því að neyta allra krapta til þess að gera þessar samkomur sem mest menntandi, með vönduðum fyrirlestrum og fjörugum kappræðum um guðfræðisleg, söguleg, bókmenntaleg, sóciöl og pólitisk efni, með gáfulegum upplestri, sem er rjett á takmörkum leikíþróttarinnar, með góðum söng og ágætum hljóðfæraslætti, þar sem alþýðu manna opt hefur verið gerður kostur á að heyra hið bezta, sem helztu tónskáldasnillingar veraldarinnar hafa framleitt, hefur kirkjunni í Vesturheimi — jeg á þar við kristna kirkju þar í landi í heild sinni — tekizt að fá stórkostlega þýðing fyrir allt hugsunar- menntunar- og menningarlíf þjóðarinnar, opna nýtt útsýni fyrir alþýðunni og beina ánægju hennar á æðri leið — að jeg hygg — en títt er í nokkru öðru landi. Þeim sem kynnu að þykja fróðlegt að kynna sjer þessa hlið á amerísku kirkjulífi get jeg vísað á góða en stutta grein um það efni í norska tímaritinu »Kringsjaa« eptir ritstjórann. Auðvitað er vestur-íslenzka kirkjan skammt komin áleiðis í þessari grein í samanburði við systur sínar þar í landi. Því veldur frumbýlingsskapurinn. En hún hefur fyrirmyndina að keppa eptir, og hún gerir það líka eptir föngum.

Svo er kirkja Vestur-Íslendinga einn öflugasti vörðurinn fyrir þjóðerni þeirra þar í landi. Það mun öllum geta skilizt að það hefur ekki smávægilega þýðing fyrir viðhald íslenzkrar tungu þar vestra, að prjedikað sje á íslenzku á hverjum sunnudegi, ungmennin sjeu upp-

frædd í kristindómnum á íslenzku og að fólk hænist að öllu því íslenzka samkvæmislífi, sem stendur í sambandi við kirkjuna. Um þetta síðasta atriði, afstöðu Vestur-Íslendinga við þjóðerni sitt og ættjörð, verð jeg að fara nokkrum orðum að endingu.

Vestur-Íslendingar voru nokkra stund að átta sig til fulls á því atriði, enda var það og eðlilegt. Framan af lenti líf þeirra svo að segja eingöngu í því, að koma ár sinni nokkurn veginn fyrir borð í efnalegu tilliti. Opinberar umræður um málefni þeirra áttu sjer svo að segja ekki stað þeirra á meðal, hugsjónirnar lágu í þagnargildi og tækifærið var því lítið til að glæða þær. Að hinu leytinu fannst fæstum þeir hafa sjerlega mikils að sakna, þegar þeir kvöddu ættjörðina. Og þeir ráku sig bráðlega á það, að sumt af því sem þeir höfðu haft með sjer þaðan varð ekki sjerlega notasælt. Öll sú vinnuaðferð, sem þeir höfðu áður lært, varð að breytast. Fatnaðurinn varð að breytast; kvennfólkið gat ekki haldið áfram með skotthúfurnar sínar, ef það var ekki staðráðið í því að verða stöðugt að athlægi. Nafna-tilhögunin varð að breytast. Fólk gat ekki haldið áfram að kalla sig syni og dætur feðra sinna mann fram af manni, ef það átti ekki að neyðast til að vera allt af öðruhvoru að halda langa fyrirlestra yfir þarlendum mönnum til þess að koma þeim í skilning um þessa íslenzku, mjög svo óhandhægu og álappalegu, sjervizku. Og íslenzk tunga var mönnum síður en ekki einhlít. Mörgu þurfti að breyta. En menn höfðu engar meginreglur eptir að fara, og flest varð af handahófi, eptir því sem hver var lyntur. Þess vegna kom t. d. upp sá ruglingur á nöfnum Ís-

lendinga vestra, sem margir yðar hafa sjálfsagt heyrt getið um. Það virtist svo um tíma, sem íslenzkt þjóðerni í Vesturheimi væri í mikilli hættu, og það var farið að bóla á því, að menn skömmuðust sín fyrir að vera Íslendingar.

Svo var það, að ættjarðarástin, sem hafði legið í blundi, ef til vill frá barnæsku mannanna, raknaði úr rotinu og tók í taumana. Mönnum fór að renna blóðið til skyldunnar. Menn fóru að sjá, að það væri drengilegra og myndarlegra, að leitast við að gera þjóðerni sitt svo gildandi þar í landi, sem framast væri unnt, en að láta sogast ofan í hringiðu þarlends þjóðlífs, án þess nein merki sæjust þess, sem menn höfðu áður verið. Mönnum fór að verða það ljóst, að þrátt fyrir alla fátæktina áttu menn ýmislegt í sinni andlegu eigu, sem var svívirðing að týna. Nú fóru menn líka að standa mun betur að vígi, því að bæði komu upp allstór blöð og töluvert samkomulíf. Ekkert tækifæri var nú látið ónotað til að vekja ástina á Íslandi og virðinguna fyrir íslenzku þjóðerni. Og mönnum fór að skiljast það, að það væri hlægilegt að vilja ekki standa til fulls við sinn eiginn uppruna. Þó var eitt, sem mönnum þótti enn hlægilegra: Sú viðleitni, sem stundum bólaði og bólar á í blöðunum hjer heima, að koma því inn í höfuðin á löndum sínum vestra, að það sje ekki til neins fyrir þá að reyna að halda áfram að vera Íslendingar þar í landi. Það dylst víst engum heilvita manni, hve ómetanlegur hagur það væri fyrir Íslendinga hjer heima, ef íslenzk tunga gæti haldizt við þar vestra, eigi að eins meðal hinna burtfluttu manna, heldur og meðal eptirkomenda þeirra.

Það mundi meðal margs annars þýða tvöfaldan íslenzkan bókamarkað eptir fáeina áratugi. Sannast að segja er viðleitni hjeðan að heiman til að hrinda Íslendingum vestra út úr íslenzku þjóðerni eitthvað meira og verra en hlægileg. Því að það er verra en hlægilegt, þegar menn vilja vinna það til að skera fæturna af sjálfum sjer til þess að geta gert öðrum mönnum bölfun.

Niðurstaðan hefur orðið sú, að Vestur-Íslendingar eru svo að segja undantekningarlaust staðráðnir í að geyma tungu sína og allt það sem bezt er í íslenzku þjóðerni svo lengi sem auðið verður Þeir ætla ekki með því að útiloka sig frá neinu þarlendu, sem þeir þurfa að nema. En þeim finnst ekki íslenzkan þyngja sig neitt niður, og þeir þykjast ekkert of lærðir, þótt þeir kunni tvö tungumál, allra-sízt þar sem þeir, það er að segja yngri kynslóðin, eiga kost á að nema þau bæði hjer um bil fyrirhafnarlaust.

Og niðurstaðan hefur orðið sú, að þeir hafa gert sjer það ljóst, að þeir elska Ísland. Það er næstum því átakanlegt, hve annt þeim er um allt það sem þessu landi megi verða til blessunar. En ást Vestur-Íslendinga á sinni gömlu ættjörð er vitanlega nokkuð sjerstaks eðlis. Það vantar í hana suma af þeim þáttum, er mynda ættjarðarást manna hjer á landi. Það vantar t. d. í hana heimilisástina, af því að heimili mannanna er í öðru landi. Það vantar í hana þann þrótt, sem lifnar við og nærist á framkvæmdum þjóð og landi til nytsemdar. Það vantar í hana alla persónulega hagsmunavon. En þið vitið, að sagt er um blinda menn, að önnur skilningarvit þeirra en sjónin

verði mikið skarpari en annara manna. Eins er með ættjarðarást Vestur-Íslendinga. Praktisku þættirnir í þeirri tilfinning hverfa að meira eða minna leyti. En rómantisku þættirnir verða að því skapi sterkari. Tilfinningin verður nær því eingöngu rómantisks eðlis. Þeir elska Ísland heitt og innilega án þess að geta gert sjálfum sjer fulla grein fyrir því. Það getur ef til vill dottið í þá, að það sje í raun og veru heimska. En svo reka þeir sig jafnharðan á það í huganum, að þeir hafa ekki elskað hana móður sína meira en alla aðra af því að hún væri allra kvenna mest og elskulegust, heldur af því að hún var móðir þeirra. Og það finna þeir að Ísland er. Og svo halda þeir áfram að elska það, hvað sem skynsemin segir, á sinn hátt. Fögnuður þeirra út af öllum sóma, allri virðing, allri frægð lands og þjóðar tvöfaldast. Ástin á skáldskapnum og tungunni margfaldast. Og endurminningarnar frá ættjörðinni stíga upp í sálum þeirra, fágaðar, ummyndaðar, laugaðar í ljósshafi þeirra eigin kærleika. En þótt bjart sje orðið yfir þeim endurminningum, eru litirnir ekki skærir. Raunir einstaklinganna og raunir þjóðarinnar hafa varpað yfir þær fölleik, hinum sama fölleik, sem hvílir svo að segja yfir öllu íslenzku hugsunar og tilfinningalífi. Ættjarðarást Vestur-Íslendinga er planta, sem á rætur innst inni í sál mannanna, á því sviði sálarlífsins, þar sem flest það grær, sem mönnum er bezt gefið, inndælast og elskulegast. En af því að sú planta fær næringu svo að segja eingöngu úr hinu rómantiska eðli mannanna, stendur ekki í sambandi við störf þeirra sjer og sínum til uppeldis og sóma, þá er blómið svo undur undur viðkvæmt. Það

lifir aldrei lengi á jarðhitanum eingöngu, hitanum frá sínum eigin rótum. Það þarf aðhlynning — aðhlynning kærleikans hjeðan heiman að. Það er ekkert afreksverk, að senda því þær kuldastrokur, að það deyi eins og suðrænu blómin hjer í görðunum á haustin. En slík viðleitni er ekki samboðin neinum góðum dreng.

Íslenzk alþýða í Vesturheimi hefur eignazt hugsjónir, lært að elska þær, lært að leggja í sölurnar fyrir þær af frjálsum vilja og lært að taka höndum saman, organisera sig, til þess að halda þeim uppi og verja þær. Þetta er í mínum augum fólksins ágætasti gróði þar í landi, gróði, sem ekki verður metinn í dollara- eða krónu-tali. Það er ekki því að leyna, sá gróði hefur kostað deilur og þær stundum allharðar. Það kostaði deilur og óánægju að koma skipulagi á fjelagsvinnu manna. Það hefur viljað brenna við hjá svo mörgum, þegar þeir hafa verið nýlega komnir hjeðan að heiman, að grautarpotturinn hefur verið þeirra æðsta samvinnu-fyrirmynd. Allt átti að sjóða saman. Allir áttu að tala og rita á þá leið, að hver lifandi maður væri á sama máli eins og þeir sem töluðu og rituðu. Allir áttu að vinna saman. Svo stofnuðu menn aragrúa af «framfarafjelögum», sem öll áttu að vinna að framförum Íslendinga í Vesturheimi. En hitt hugkvæmdist mönnum ekki, að ákveða fyrirfram, í hverju framfarirnar ættu að vera fólgnar, og svo varð náttúrlega ekki neitt úr neinu nema rifrildi og botnleysa. Og þegar svo einhver sagði eða gerði eitthvað, sem fór í ákveðna átt og batt fylgisvonina við ákveðna sannfæring, þá var kvartað og kveinað undan ófrjálslyndi

og ofstæki. Vestur-Íslendingar eru fyrir all-löngu komnir af þessu stigi, að undanteknu nýkomnu fólki og einstöku hjervillingum. Þeir hafa lært að taka höndum saman um skoðanir sínar og hugsjónir — með öðrum orðum orðið flokksmenn. Og sem flokksmönnum hefur þeim all-opt lent saman — og það stundum heldur óþyrmilega, sem ekki er nein furða, þegar menn athuga það, að prentfrelsið í Vesturheimi er svo að segja ótakmarkað, en þeir óvanir því að nota það. En jeg vil biðja menn að gjalda varhuga við að gera of mikið úr þeim deilum. Jeg hef tekið eptir því, að menn hugsa sjer þær miklu megnari en þær eru. »Aumast er, hvað Vestur-Íslendingum kemur illa saman«, segja menn hjer. »Það má vera ljótt að lifa í Winnipeg, í öllum þeim eldi«; það hefur nokkrum sinnum verið sagt við mig. Jeg hef sjálfur venjulega staðið mitt í eldinum, og jeg get borið um það, að hann er ekki nándar nærri eins heitur og menn halda. Og eigi skal jeg dyljast þess, að af þeirri litlu viðkynning, sem jeg hef haft af þessum bæ, síðan jeg kom í vor, getur mjer ekki annað fundizt en að hjer sje drjúgum meira af smásálarlegum kur og úlfúð heldur en meðal Íslendinga í Winnipeg. Í raun og veru var svo komið í Winnipeg, þegar jeg fór þaðan, að þar var um alls enga persónulega óvild að ræða út úr flokksmálum. Sumir áttu beztu vini í andstæðingaflokki sínum, og það er óhætt að fullyrða það, að mönnum er þar stöðugt að lærast það betur og betur að virða sannfæring annara manna, enda er það ekki nema eðlilegt, því að menn eru allt af að venjast við það meira og meira að heyra henni haldið fram.

En jeg á ótalda þá hugsjón Vestur-Íslendinga, sem fyrir mínum augum er djarfmannlegust og virðulegust, að koma upp sjerstakri stofnun, sem það hlutverk sje ætlað, að láta Vestur-Íslendinga sjálfa leiða sinn æskulýð inn í menntalíf landsins, láta þá leggja beinan skerf til menntalífs landsins, og láta þá jafnframt geyma þann eina fjársjóð, sem þeir hafa komið með af ættjörðinni, íslenzka tungu og íslenzkar bókmenntir, fjársjóð, sem Íslendingar einir eiga, þótt fátækir sjeu, og engin önnur þjóð í heiminum, hvað auðug sem hún er og hvað voldug sem hún er. Jeg ætla ekki að fara að prjedika neitt um vestur-íslenzka skólamálið nú, en jeg get ekki stillt mig um að taka það fram, að jeg sje ekki af hverju menn hjer á landi, sem annt er um sóma þjóðflokks síns í öðrum löndum, ættu fremur að gleðjast, nje hverju þeir ættu að taka með hlýrri huga en þeirri viðleitni, að færa saman dýrmætustu frækornin, sem til eru í íslenzku þjóðlífi og dýrmætustu frækornin í þjóðlífi Vesturheims, og sá hvorumtveggja í akurreit vestur-íslenzkra sálna.

Á ferð minni um íslenzku nýlendurnar, rjett á undan heimför minni til Íslands, voru þetta venjulega síðustu orðin, sem við mig voru sögð: »Jeg bið að heilsa«. Þeir báðu að heilsa ástvinunum fyrst og fremst öllum lifandi bænum, ef jeg hitti þennan og þennan, og að gleyma því ekki að skila kveðju. Og þeir báðu að heilsa svo mörgu öðru — ættjörðinni sinni fornu, fjöllunum og fellunum, hálsunum og hlíðunum, [illegible] og lautunum, grundunum og grösunum, og [illegible] hestunum — öllu báðu þeir að heilsa. Og [illegible] gegnum hverja einustu ræðu, sem haldin

var, gekk rauður þráður af ættjarðarást, af loforðum um að gleyma aldrei tungunni, sem höfundar Njálu, Eglu, Laxdælu og Heimskringlu rituðu á, tungunni, sem Jón Vídalín prjedikaði á, tungunni, sem höfundar Eddukvæðanna og Hallgrímur Pjetursson og Bjarni Thórarensen og Jónas Hallgrímsson kváðu á — rauður þráður af loforðum um það, að þeir skyldu ekki í sínu auðuga æskunnar landi gleyma fátæka landinu gamla, þar sem blessuð sumarsólin signdi fyrst, að minnsta kosti þá af þeim, sem komnir eru til ára sinna, og mörg ungmennin líka, og þar sem jafnframt andans sól, kærleikans sól signdi þá sem saklaus börn, og mæður þeirra kysstu þá blíðlegast, föðmuðu þá fastast, báðu fyrir þeim innilegast, elskuðu þá heitast og kenndu þeim að segja: »Vertu, guð faðir, faðir minn«.

Já, þeir báðu að heilsa. Jeg skila nú þeim kveðjum öllum í einu. Þær eru svo fáar, sem jeg á kost á að skila sjerstaklega. Og það er ein af mínum heitustu óskum, ekki að eins að mjer megi auðnast að skila sem flestum kveðjum milli Austur- og Vestur-Íslendinga, heldur og að enginn verði til þess að flytja annað en bróðurorð milli bræðranna austan hafs og vestan.



